# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., APRÍL 1894. | 4.


# TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

-:o:-

## I. UPPRUNI OG ÞROSKUN GUÐSHUGMYNDARINNAR OG GUÐSDÝRKUNARINNAR.

Ef vér athugum æfi einstaklinganna, hinna merku andans manna, svo sem Shakespeare's eða annara, þá getum vér séð, að sá var tíminn, að engin hugsun hafði myndast í heila þeirra, svo vaknaði hugsunarhátttrinn hjá þeim ofr einfaldlega, en var þó mjög barnalegr, hugsanirnar voru ófullkomnar í mesta máta, héngu ekki saman, ræða þeirra var meiningarlaust bull, því þeir voru fávita börn. Svo þroskuðust þeir, stigu einlægt hærra og hærra og urðu mestu andans menn, svo að öldum saman dást menn að sálarhæfilegleikum og andlegu atgjörfi þeirra. Það sem segja má um einstaka menn, það má segja um heila kynflokka og mannkynið alt yfir höfuð. Sá var tíminn, að mannkynið var ekki farið að hugsa neitt um þau málefni, sem nú eru daglega í hvers manns huga og á hvers manns vörum. Sá var tíminn, er mannkynið fyrst fór að gjöra sér mjög ófullkomnar og barnalegar hugmyndir um guð, og rétt eins og þá er börnin fyrst fara að standa, fóru menn að reyna að nefna orðið „guð,“ og láta í ljósi og skýra hver fyrir öðrum, þessa nýju og stórkostlegu hugmynd, hugmynd þá, sem einlægt þroskaðist og fullkomnaðist, uns hún náði hátign sinni, hrein-

leika og sjálfsafneitun hjá mönnum, sem þeir Buddha og Kristr. Það sem vér nú fyrst ætlum að reyna að skýra eptir föngum er, að komast sem næst hinum elstu hugmyndum, sem mennirnir hafa gert sér um guð.

Í fyrsta skifti í sögu mannkynsins hefir þekking hinna nýrri tíma á hinum seinustu 60 árum kveikt ljós það, er getr lýst oss í rannsóknum þessum, og með blys þetta í hendinni getum vér fetað aftr stigu mannlegra framfara, alt aftr að þeim tíma, er dimman lá yfir mannkyninu, og enn lengra til þess tíma, er „myrkr var yfir jörðinni" og að eins einstaka stjörnur slógu daufum geislum á hina sólarlausu jörð. Með blys þetta í hendinni verðum vér að ganga inn í holur þær og hellra, er voru bústaðir hinna fyrstu manna og vita, hvað vér finnum þar. Vér skulum láta blysið lýsa oss og vita, hvort vér getum fengið augabragðssjón af hinni fyrstu tilbeiðslu manna.

Ættfaðirinn eða höfðingi flokksins er nýdáinn. Fyrst bíða ættmenn hans við, til þess, að vita, hvort lífið muni ekki hverfa aftr til líkamans, og til þess að þetta geti orðið, vernda þeir líkama hans frá rotnun, sem þeir geta. Þeir sögðu, af átsæðum, sem síðar skal getið: „Má ske hann sé að eins farinn um stund. Hann kann að koma aftr á morgun, eða næstu viku, eða næsta mánuð og heimta þá líkama sinn aftr. Vér skulum því geyma hann, sem best vér getum." En svo kom, að þeir urðu þreyttir að bíða, tóku því líkamann og grófu hann, og bjuggu svo vel um hann, sem þeir gátu, að hann rotnaði eigi, eða yrði eigi misboðið. Þeir bygðu yfir hann hauga, hjuggu út steinþrór, grófu honum gröf. Og á gröfum þessara ættfeðra sinna kveiktu þeir bál mikil, til þess að lýsa hinum látnu á ferðum sínum á nóttum. Þangað — að þessu fyrsta altari, gröfinni — færa þeir fæðu, til að fórna hinum dánu. Þangað færa þeir blóm, reykelsi, vopn, yfir höfuð alt, sem þeir ætla að hinir dánu höfðingjar vilji hafa með sér, alt, sem þeir elskuðu í lífinu (hest og hund, og hauk og vopn). Hér — ég vil biðja menn að veita því athygli — hér geta menn fundið uppruna blótfórnanna, mannfórnanna. Ef að höfðinginn var voldugr, grimmr, blóðþyrstr, ef að hann í lífinu þyrsti eftir blóði óvina sinna, ef að það var vani hans og yndi, að slátra svo mörgum óvinum sínum sem hann gat, þá færa nú ættmenn hans á gröf hans þá herteknu menn af óvinaflokki hans, sem þeir geta, og slátra þeim þar, því þeir þykjast vita, að þetta sé hin sætasta fórn, sem þeir geti flutt honum, að þetta veiti honum

hið mesta yndi eftir dauðann. Síðan er fenginn besti ræðumaðrinn í ættflokknum og látinn tala langt erindi og snjalt, og hefir hann upp frægðarverk og stórvirki hins látna. Stundum raða þeir sér í hátíðargöngu, ganga í flokkum í hring um gröfina eftir hljóðfalli og syngja lofkvæði hinum látna til heiðurs. Þetta eru hin fyrstu tilbeiðsluljóð, sem mannkynið nokkru sinni hefir sungið. Þetta er stutt, en skýrt sýnishorn og skiljanlegt af hinni fyrstu tilbeiðslu manna — tilbeiðslu eða dýrkunar ættflokksins á ættföðurnum.

En nú mætum vér ráðgátunni: „Hvernig stóð á því, að menn þessir skyldu ætla það, að höfðingi sinn væri ekki dáinn? Hann talar ekki framar, hann hreifir hvorki hönd né fót, hann lætr ekki í ljósi neinar geðshræringar, hann hirðir hvorki um fæðu né drykk, hann er hættr að opna augun. Hvernig kemr það, að þeir ætla, að hann sé ekki dauðr, en lifi einhvers staðar annars staðar, að hann njóti þar sorgar eða gleði? Menn mega ekki láta sér bregða, þótt ástæðurnar, sem eg kem með fyrir myndun trúar þessarar, sýnist óbrotnar og einfaldar, því menn verða að kasta frá sér niðrstöðu lærdóms og menningar um mörg hundruð ár, en gjörast einfaldir sem börnin, þekkingarlausir, sem þau á lögum heimsins, þá eiga menn betra með að sjá og skilja ályktanir þeirra hinni fyrri manna. Eftir því andans ljósi, sem þeir höfðu, eftir reynslu og þekkingu þeirri sem þeir höfðu fengið, ályktuðu þeir eins hugsanfræðislega rétt og vel, sem vér gjörum enn þann dag í dag. En hvað sjáum vér? Maðr einn gengr um í sólskininu og sér skuggann við hlið sína á jörðinni, og fer að spyrja sjálfan sig hvað þetta sé. Hann þekkir ekkert til lögmáls þess, sem hvort barnið þekkir nú á dögum, lögmálsins fyrir geislabrotinu, og að hver ógagnsær líkami hlýtr að kasta skugga, þegar birtu ber á hann. Honum kemr ekki til hugar að líta upp til himins eftir ástæðunni, og þegar ský dregr fyrir sólu sér hann skuggann hverfa og verðr steinhissa og undrast stórlega, hvað af skugganum hafi orðið. Hann lítr niðr í vatnið og sér þar mynd sína í ánni, eða læknum, eða stöðupollinum. Hann skilr ekkert í því hvernig hún sé til komin þessi mannsmynd, sem fylgi sér einlægt, þegar hann fer á stað, þá fer hún líka. Hann reynir að skýra þetta fyrir sér, og skýring sú sem honum þykir sennilegust er sú, að þetta sé fylgjan hans, sé lifandi eins og hann, geti farið og komið eftir geðþótta eins og hann. Enda er þetta hin sennilegasta skýring, sem hann er fær um að gera. Þessi trú hefir gengið niðr um

aldirnar mann fram af manni og lifir enn í fornum þjóðsögum víðsvegar um heiminn. Sýnir þetta, hvernig trú þessi hefir grafið sig inn í huga manna.

Svo var annað, sem kom manninum til þess, að trúa á þessa hina aðra tilveru sína. Hann lagðist niðr og fór að sofa; hann þekti ekkert til uppruna draumanna, og vér vitum í raun réttri mikið lítið um þá enn þann dag í dag. En á meðan hann sefr, fer hann í ferðalag; hann fer á veiðar, leggr út í orustur, hann ræðir við vini sína; og það, sem er undarlegast af öllu, hann hittir þá skugga þeirra sem fyrir löngu eru dánir, og talar við þá sem maðr talar við mann. Þetta finst honum vera alt eins satt og verulegt, sem hann væri glaðvakandi. Í draum sínum sér hann skugga hundsins, antílópunnar, hestsins, bjarnarins, vopnsins; hann sér arinstóna og búsgögn sín. Hann fer því að ætla, að til sé annar heimr en þessi, er hann daglega sér með opnum augum, annar skuggaheimr, en samkyns og þessi. Svo þegar hann vaknar, þá sér hann að hann liggr þar sem hann sofnaði út af. Skýring sú, er hann gerir sér á þessu, er mjög eðlileg og hugsunarrétt eftir þeirri þekkingar-undirstöðu, sem hann hefir að byggja á, og hún er sú, að þessi skuggamynd sín hafi verið á ferð, að veiða, að berjast, að heimsækja vini sína, en nú sé hún komin aftr, og er hún kom aftr og fór inn í líkama hans þá vaknaði líkaminn, og nú sér hann heiminn eins og áðr.

Í daglegu tali getum vér enn fundið leifar af þessari trú, þótt undarlegt þyki. Setjum svo, að einhver stúlkan okkar skyldi líða í ómegin og vera borin fram í anddyrið til að svala henni. Vér reynum að hlúa að henni, stökkvum vatni yfir enni hennar, núum hendur hennar og bíðum þess, að hún lifni við aftr. Þegar hún svo opnar augun þá segjum vér: „Hún kemr til . . . .,“ og ef vér ljúkum við setninguna og segjum: „Hún kemr til sjálfrar sín aftr,“ þá er þar komin gamla trúin. Andinn (sálin, lífið) hefir farið frá henni og líkaminn orðið meðvitundarlaus, en nú er sálin komin aftr og þá vaknar hún, eða raknar við, sem menn einnig segja.

Þarna sjáum vér þá hina fyrstu frumlegu trú manna, undirstöðuna fyrir trúnni á tilveru eftir dauðann. Menn þessir ályktuðu réttilega, er þeir sögðu, að sála hins sofandi manns væri f[illegible]ri honum um stund, en kæmi svo aftr.

Annað dæmi getum vér tekið, er einn eðr annar var í leiðslu, eða

fékk högg á höfuðið í bardaga, svo að hann varð meðvitundarlaus, stundum tímum eða dögum saman. Allan þenna tíma var sála hans í burtu frá líkamanum; svo kemr hún aftr. Það er því augljóst, að hún getr lifað án líkamans einn dag, tvo daga, eina viku. En því þá ekki að eilífu? Má ske hún komi aftr að þúsund árum liðnum (Egyftar) og taki sér aftr bústað í sínum gamla líkama. Á þennan hátt, og eins eðlilega og grasblaðið spratt af jörðunni, óx upp trúin á þennan hinn annan ósýnilega heim.

Við þessa trú tengdist svo á mjög eðlilegan hátt trúin á hýbýli eðr bústaði hinna dánu. Af einni eðr annari ástæðu tóku ættflokkarnir sig upp og fluttust burtu frá hinum gömlu bústöðum sínum. Annaðhvort bygðu þeir í fyrstu við ármynni eitt og fluttu sig svo upp með ánni og tóku sér þar nýja bústaði, eða þeir hröktust fyrir öðrum flokki yfir fjallgarða, eða þeir bjuggu í holum og hellrum, til þess að verjast kulda og regni og viltum dýrum, svo þegar þeir urðu mannfleiri og þróttr þeirra óx, þá réðust þeir í það að koma fram í sólarljósið og taka sér bólfestu undir hinu bláa himinlofti. Hvað var nú eðlilegra fyrir þá, en að gjöra hið sama og vér gjörum enn þann dag í dag, að gera sér gullnar hugmyndir um gömlu bústaðina, gömlu tímana, að draga miklu fegurri myndir upp í huga sér af umliðna tímanum, en hinum yfirstandandi, að gleyma öllu hinu illa, sem þeir urðu áðr að líða, en muna alt hið illa á yfirstandandi tímanum, að skapa þannig mótsetningu milli hinnar gullnu fortíðar og hinna járnhörðu daga hins yfirstandandi tíma. Svona var það, og í jarðvegi þessum blómguðust draumar þeirra um „Eden" og gullna fyrri daga og yndislega bústaði. Það var því ekki að undra, þótt þeir tryðu því, að sálir hinna dánu sneru aftr til hinna fyrri heimkynna. Vér höfum dæmi þessa nú á dögum, þar sem þjóð-flokkar þeir, er færst hafa upp með fljóti einu, setja lík hinna dánu ættmanna sinna í bát einn og hrinda honum svo út á fljótið, svo að hinn dáni geti farið til síns gamla heimkynnis. Vér vitum að þeir trúðu því, að hinir dánu sneru aftr til hinna fyrri bústaða ættflokksins yfir fjöllin, eða inn í hellrana gömlu (sjá Helgafell í Eyrbyggju). Af þessum hellrum, sem voru hin fyrstu skýli og híbýli manna, hefir æxlast trúin á hið hebreska „sheol," hið gríska og rómverska „Hades" og aðra undirheima-bústaði þjóðanna. Eða þá þeir sáu í fjarska yfir hafið mót niðrgöngu sólar loftmyndir af fögrum eyjum, sem þeim sýndust undrfögr og yfirnáttúrleg lönd, og svo kviknaði hjá þeim trúin á það,

að hinir dánu hefðu farið gegn niðrgöngu sólar, eins og Hiawatha, er svam á ljósöldum niðr í vestrið í leit sinni að „eyjum hinna farsælu.“ Þannig hefir það verið á mjög eðlilegan hátt, að trú þessi hefir myndast, sem í einni eðr annari mynd hefir haldist við alt til þessa og stjórnað heiminum.

Eins og að framan er sagt, var hin fyrsta tilbeiðsla forfeðradýrkun, dýrkun hinna dánu feðra ættflokkanna. En, eins og auðsætt er, urðu guðir þessir góðir eða vondir, æðri eða óæðri, eftir því hvernig þeir voru meðan þeir lifðu á jörðunni. Þegar þeir voru dánir urðu þeir konungar í hinum neðra heimi, og biðu þar komu fylgjenda sinna og ættmanna.

Af þessari forfeðradýrkun myndaðist aftr skurðgoðadýrkun. Menn tilbáðu stokka og steina, eðr tré, eðr aðra dauða hluti. En hvernig kom það nú til, að menn voru svo heimskir að gjöra þetta? Þá er fyrst að gæta þess, að vér megum ekki álíta þá svo skynsemdarlausa að ætla, að þeir í rauninni hafi tilbeðið þessa stokka, eðr steina, heldr orsakaðist það þannig á einn eðr annan hátt, að þeir tileinkuðu þessum stokk eða steini góða hamingju eða óhamingju. Og eins og áðr er á minst um skuggann og drauminn, ætluðu þeir að stokkrinn, eðr steinninn, eðr tréð, eðr fjallið, eðr hestrinn, eðr hundrinn hefðu allir aðra tilveru, aðra lifandi hræranlega sálu. Þeir ætluðu að alt þetta hefði í sér fólginn einhvern hulinn kraft, eða þeir trúðu því að hinir látnu forfeðr, eðr vinir þeirra, hefðu tekið sér bústað í þessum skepnum, eða stokkum, steinum eða líkneskjum, því að eitt atriðið í þessari trú var það, að sálin gæti farið burtu og komið svo aftr. Svo héldu þeir og að annar andi gæti komið og farið inn í líkamann og tekið sér bústað í honum meðan sálin væri í burtu (Gyðingar á dögum Krists, sjá nýja Testam.). Þeir tóku sér aðsetr í líkamanum, sem sínum eigin bústað. Þannig segir nýja Testam. að sjö andar hafi sest að í Maríu Magdalenu; í öðrum manni hneptust svo margir saman í einu, að hann kallaði þá „legio“ (legio var rómverskr herflokkr, er í voru þetta frá 3000—6000 manns). — Menn komu því og tilbáðu einn eðr annan steininn, eðr stokkinn, eðr vopnið, sem þeir af tilviljun tileinkuðu heppni eða óheppni; annaðhvort báru þeir fram þakklæti sitt fyrir eina eðr aðra hamingju, er þeim hafði hlotnast, eða þeir reyndu að blíðka þetta goð sitt, svo það snéri frá sér óhöppum,

Næsta stigið í þroskun þessara guða var dýrkun dýra, fjalla, vatna,

trjáa, stjarna, sólar og tungls. Orsakaðist það á tvennan hátt. Fyrst var það, eins og áðr hefir verið frá skýrt um skurðgoðadýrkun, að menn trúðu því að þetta alt hefði tvöfalda tilveru, aðra í líkamanum og aðra utan líkamans. Trú þessi hélst við alt fram á daga stjörnufræðingsins mikla, Keplers, rétt á undan dögum Newtons, um 1600 e. Kr., því að Kepler sjálfr trúði því, að hver stjarna hefði sinn stjórnandi anda, er stýrði hreifingum hennar. Var það hin skynsamlegasta ástæða, er hann gat skýrt með hina reglubundnu hreifingu þeirra um geiminn. Önnur ástæðan fyrir náttúrudýrkun þessari var engu óeðlilegri. Menn vita, að það er alment enn í dag og hefir jafnan verið svo, að miklir menn hjá villiþjóðum taka sér ein eðr önnur nöfn úr ríki náttúrunnar, svo sem: „Sitting Bull“ (ɔ: sitjandi boli), „svarti Haukr,“ „hin mikla Kráka,“ „Örninn.“ Sumir taka sér nöfn af skjaldböku, héra eðr bifr. Þegar stundir líða gleymdist það, að mennirnir höfðu tekið sér þessi nöfn. Menn vöndust á það að segja, að bifrinn, eða sólin, eða stjarnan, eða fjallið, væri ættfaðir þeirra, og þegar menn höfðu vanist á að tilbiðja þessa forfeðr sína, þá var svo ofr eðlilegt, að menn færu að tilbiðja stjörnuna, eðr sólina, eðr fjallið, eðr dýrið. Frá mönnunum fluttist dýrkunin yfir á hlutina sjálfa, eins eðlilega eins og sáðkornið vex upp úr jarðvegi þeim, sem því er sáð í.

Þessi dýrkun leiðir aftr mjög eðlilega til hins næsta stigs, til fjölgyðistrúarinnar, eða dýrkunar margra guða, vondra og góðra, æðri og lægri, meiri og minni yfir allan heim. Enn þann dag í dag dýrkar alþýða Inda guði í þúsundatali og sama er í Kína. Í goðahöllinni í Róm voru guðirnir hundruðum saman. Hið næma ímyndunarafl hinna fyrri manna bygði alheiminn með allrahanda myndum, öndum, ófreskjum, vinveittum eða óvinveittum, og tileinkuðn þeim allar þær einkunnir, allar þær dygðir og lesti, sem menn gátu fundið í sínu eigin fjölbreytta lífi.

Næst er að geta tveggja afla, er voru verkandi innan um allan þenna fjölgyðissæg. Annað er náttúru-úrval (Natural selection); eftir því hófust nokkrir guðanna upp til mikillar tignar, en aðrir voru færðir niðr í hin neðri sæti; urðu þeir þá lítils metnir, eða gleymdust að öllu. Geta menn séð, hve eðlilega þetta gekk til hjá Egyftum t. d.: Egyftar voru mikil þjóð, svo að öðrum þjóðum stóð ótti af, það var því ofr eðlilegt að guðir Egyfta væru máttugri, en guðir smáþjóðanna í kring um þá. Babýlónar ríki breiddi vængi sína yfir austrlöndin.

Guðir þeirra Babýlónsmanna voru því miklir og hátignarlegir, sem konungar þessarar miklu borgar báru af öðrum konungum. Þannig var það, að upp komu miklir og voldugir guðir, eins og upp komu miklir og voldugir konungar. Samkvæmt þessu varð Júpíter konungr allra hinna Olympisku guða. Eins höfðu Indar einn æðsta guð, Kínverjar einn æðsta guð, og svo var það um heim allan þar sem hugsun manna náði nokkrum þroska.

Jafnframt þessari skiftingu guðanna í tvo flokka, æðri og lægri, var þeim og skift í aðra flokka tvo, í góða guði og vonda, í óvinveitta og vinveitta. En hvort heldr þeir voru vondir eða góðir, þá tilbáðu menn þá samt, og geta menn mjög vel gert sér grein fyrir hvernig á því stóð. Ef menn á annað borð trúa því, að til sé kraftr eða guð sem geti gert þeim ilt, þá reyna menn að hafa hann góðan, ef hann er illviljaðr, alt eins og menn reyna að þóknast honum og gleðjast í honum, ef hann er mönnum góðr og vinveittr. Þessi hugsun er ekki dáin út enn. Ég hefi stundum sagt mönnum frá frú einni í Boston, sem ég oft hefi talað við nú í tvö ár. Hún sagði einu sinni við mig: „Mig langar ósköp til að trúa eins og þér, en ég þori það ekki. Ég veit ekki nema til kunni að vera guð á himnum, e i n s og mér hefir verið frá honum sagt; en sé svo, þá er ég hrædd við hann.“ Þá er og skamt síðan móðir ein kristin á Englandi kendi barni sínu, að hneigja sig í hvert skifti sem djöfullinn væri nefndr. Svo spurði kona ein hana hví hún gerði þetta, og sagði hún þá: „Af því ég held það sé vissara.“ Það er best að gjalda hverjum það honum ber, og djöflinum sitt, hugsar margr maðrinn. Það er best að vera inn undir hjá hverjum þeim krafti, eða hverjum þeim guði, sem getr hjálpað manni eða skaðað mann. Þannig geta menn séð, hvernig skifting guðanna í góða og vonda hefir fram farið.

Þá átti sér stað önnur breyting nokkuð hjákátleg, en þó mjög eðlileg. Einhver voldug þjóð leggr undir sig aðra kraftaminni. En um leið og þjóðin þessi var sigruð, þá voru og líka sigraðir guðir hennar, og þeim steypt úr tign sinni og gjörðir að undirlægjum. Svo var það, þegar Zóróaster boðaði hina nýju trú sína og sneri hundruðum þúsunda til hennar, þá urðu guðir Inda, hinnar yfirunnu þjóðar, að illum öndum og djöflum Parsa. Leifar þessa sjást enn í tungu vorri, því orðið d j ö f u l l er upphaflega leitt af hinu indverska orði d e v a. Í fyrstu hefir guð og djöfullinn verið hin sama persóna, en

eftir því sem hugsun manna þroskaðist, þótti mönnum það ekki eiga saman, og þegar guðunum var skift í góða guði og vonda, voru þeir algjörlega aðskildir. Þannig sjáum vér, að allar þjóðir hafa dýrkað einn eðr annan náttúrukraft. Þær tilbáðu heiðríkjuna og óveðrsskýin, sólina, sem hinn svíðandi brennandi loga Molochs, hinn brennheita vind, sem blæs um eyðimerkurnar og eyðileggr kornið á ökrunum. Þannig hafa þeir tvo flokka af guðum, er þeir tilbiðja, ljósguði og myrkraguði, góða guði og vonda, hjálpsama guði og skaðvæna guði.

Nú kemr hið næsta stig á eftir fjölgyðistrúnni. Það var auðsætt að þessir mörgu guðir gátu ekki haldið áfram að aukast og margfaldast að eilífu; en stigið, sem hér kemr á eftir, kallar austrlandafræðingrinn Max Muller „h e n o t h e i s m," mætti kannske nefna það þjóðgyðistrú. Það er, þegar þjóð ein tilbiðr einn guð sérstaklega og telr hann vera guð sinn, en ekki annara. Aðrar þjóðir geta haft sína guði, en þeir hafa þennan og engan annan, án þess þó þeir neiti öðrum guðum. Til skýringar þessu getum vér litið yfir sögu gyðinga. Þeir trúðu því, að þeir ættu að tilbiðja Jehóva (eða Jahwe) einan og engan annan, og hafa þeir því jafnan verið taldir eingyðismenni menn sem trúa á einn guð. En það er rangt, því þeim kom aldrei til hugar að neita tilveru Dagóns Philisteaguðs, eða guða Egyftalandsmanna, eða guða Týrusbúa, eða Sídonsbúa, eða guða Móabíta. Þeir trúðu að þeir væru til, trúðu að þeir væru sannir guðir. En Jehowah var þ e i r r a guð og hann áttu þeir einan að tilbiðja. Menn geta alls staðar fundið merki þessa í hugsunarhætti Gyðinga, svo sem þá, er þeir kalla guð „konung konunganna" og „drottinn drottnanna." Jehóvah, eða réttara Jahwe, var því ekki hinn eini guð. Hann var hinn eini guð Gyðinga og hann var „konungr allra guðanna." Þessir aðrir guðir voru líka til, en Jahwe var konungr þeirra, máttugri en þeir, hann lagði þá undir veldi sitt, eins og þegar Davíð konungr lagði undir sig smákonungana, sem voru nágrannar hans.

Hið næsta stig á eftir þessari þjóðgyðistrú var e i n g y ð i s t r ú, sú trú, að menn ekki einungis skyldu trúa á einn guð, heldr útiloka alla aðra guði frá tilbeiðslu manna, trúa því, að enginn guð væri til nema þessi eini. Þetta er hið stærsta stig í trúarlífi manna; það er stigið frá myrkrinu til ljóssins; þá kemr dagsroðinn í trúarlífi heimsins. En hvernig náðu menn nú stigi þessu? Ég vil að eins drepa

á tvær eða þrjár ástæður, sem eðlilega hlutu að leiða menn frá þjóðgyðistrú til eingyðistrúar, frá trúnni á marga guði til trúarinnar á einn guð.

Hin fyrsta er sú, að hvert það fólk sem trúði á einn guð, hlaut þar af að leiðast til þess, að álíta að hann einn væri sá eini rétti og enginn annar. Í öðru lagi hlutu stjórnfræðislegar ástæður, þjóðardramb og vöxtr þjóðar einnar, að hafa hin sömu áhrif. Eftir því sem þjóðin varð stærri og fjölmennari og guð þeirra óx með henni og varð meiri og máttugri, þá var það eðlilegt, að þjóð þessi mundi líta með fyrirlitningu á guði annara þjóða, og ætla, að þeir væru ónýtir og einskis virði, er þeir gátu ekki varið þjóðir þær er trúðu á þá, og gjört þær ríkar og voldugar. Hin þriðja ástæða fyrir því, að Gyðingar urðu hinir fyrstu eingyðismenn sem vér höfum fullar sögur af, var hið algjörða og stranga forboð Mósesar, að dýrka annarlega guði. Þegar Rómverjar hertóku Jerúsalem, brutust þeir einna fyrst inn í musterið og er þeir litu inn í hið allra helgasta stóðu þeir sem höggdofa af undrun, því að þeir fundu þar ekkert, það var tómt. Þeir voru að leita að guði Gyðinganna, en þegar þeir komu þangað er þeir ætluðu að hann væri, þá fundu þeir þar ekkert. Þetta var að ætlan minni ein aðalástæðan til þess, að leiða Gyðinga til eingyðistrúar. Þeir tilbáðu ósýnilegan, andlegan mikinn kraft, er grípr yfir heim allan, þegar leið á daga þeirra, og því gátu þeir sagt: „vor guð er lifandi, en yðar guðir eru ekkert annað en líkneskjur“ Esj. 44. Hin fjórða ástæðan fyrir því, að þjóðirnar leiddust til eingyðistrúar, var vaxandi tilfinning fyrir því, að heimrinn stjórnist eftir vissum lögum. Geta menn séð það af sögu einni um Abraham, sem rabbínar segja. Sagan er náttúrlega mörg hundruð árum yngri en Abraham, en það gjörir ekkert til. Upphaflega var það sagt, að Abraham hafi verið sólardýrkandi, sem vafalaust hefir verið. Þá er það sagt um hann, að hann hafi litið til sólarinnar og sagt: „Þessi er minn guð, hann skal ég tilbiðja.“ En svo leið dagr inn, sól gekk til viðar og tók að nátta; þá mælti Abraham: „Þetta getr ekki verið guð, sem lætr myrkrið gleypa sig.“ Svo kom tunglið upp og mælti hann þá: „Þetta er guð og þessar stjörnur eru herskarar hans.“ En svo gekk tunglið undir og stjörnurnar hurfu úr sýn og mælti hann þá: „Þessir geta ekki guðir verið. Sólin og tunglið hreifast sinn reglubundna hring; þau hljóta að vera lögum háð; ég skal tilbiðja hann einan, sem býr til þessi lög og veldr hreifingum

þessara líkama.“ Þessi og annar eins hugsunarháttr hlaut eðlilega að leiða til eingyðistrúar.

En þetta er ekki alt stigið. Gyðingar tilbáðu einn guð. Samverjar tilbáðu einn guð, en þeir ætluðu hvorir tveggja, að guð sinn væri bundinn við vissan stað. Einu sinni kom maðr og spurði Krist: „Hvar eigum vér að tilbiðja guð? Samverjar segja, að vér eigum að tilbiðja hann á Gerazim, en Gyðingar segja, að vér eigum að tilbiðja hann á Móríafjalli. Þú, sem ert Messías, getr skorið úr þessu.“ Svarið var dauðadómr yfir guðsdýrkun að eins á vissum stöðum, það losaði guð úr böndum og gerði hann eilífan og alls staðar nálægan, því Kristr sagði: „Hvorki á þessu fjalli, né í Jerúsalem eingöngu, eiga menn að tilbiðja föðrinn, guð er andi og því eiga menn að tilbiðja hann í anda og sannleika.“ Kristr tilbað guð í anda og sannleika, hann var sannr eingyðis-trúmaðr.

Í trúarjátningum sínum hefir kirkjan haldið því fram, að guð sé andi, án þess að hafa nokkurn líkama eðr limi. En þó verðr maðr þess var á tali manna, að mikill hluti kristinna manna hugsar sér líkamlegan guð, að hann lifi á einhverjum vissum stað, að hann hafi aðsetr sitt í dýrðlegum höllum í einhverju himnesku landi. Vér megum ekki fara í trúarjátningarnar, til þess að vita hverju alþýða trúir, ef vér viljum fá að vita það, þá verðum vér að fara í sögurnar sem ganga mann frá manni, í þjóðsögurnar, goðsagnirnar, í skáldskapinn. Ítalska skáldið Dante segir oss betr en nokkrar trúarjátningar, hvað hafi verið trú manna á miðöldunum. Hann lætr guð vera í Paradís sinni, ósýnilegan, í svo björtu skýji að enginn maðr þoldi á að horfa, og eftir hugsun Dantes og eftir hugsun manna á miðöldunum, var guð þarna í skýinu í einni eðr annari mynd eðr lögun og ekki annars staðar. Ef vér tökum Paradísarmissir Miltons, sem sýnishorn af hugmyndum enskutalandi manna á þeim tímum, þá sjáum vér að guð er þar eins og annar Júpíter, hann sitr á hásæti í himninum og slöngvar frá sér þrumufleygum, hann safnar herflokkum til þess að reka burtu uppreistarenglana. Reyndar var ekki hægt að særa engla þessa dauðlegu sári, en þó mátti reka spjót í gegnum þá, skjóta örvum á þá, þeir gátu kastað tindafjöllunum í gegnum loftið, og hnoðað hver öðrum undir rætur þeirra. Þetta er almenn hugmynd um guð, að hann búi einhvers staðar, sitji einhvers staðar, stjórni einhvers staðar, að hann hafi aðsetr sitt

þar, en ekki annars staðar. Ég skal ekki að sinni fara út í það, hvort þetta sé svo eða ekki, en að eins geta þess, hvað sé trú manna.

Nú er eftir að skýra frá því, svo stuttlega sem mögulegt er, hverjar séu hinar helstu hugmyndir manna um guð á nýrri tímum.

1. Fyrst er þá að geta þeirrar skoðunar, sem nú hefir seinast verið lýst, að guð sé sýnileg vera, einhvers staðar utan við alheiminn. Hann hafði lifað um ómælilega eilífð. En svo kom að hann rankaði við sér, og réði það af, að skapa tilveru fyrir utan sjálfan sig, sér fráskilda. Hann skapaði efnið af engu. Síðan hafði hann þetta ólagaða efni til þess, að búa til úr því heima, og smíðaði þá, eins og þegar timbrmaðr smíðar hús eitt, eða skipasmiðr smíðar skip og hleypir því svo af stokkunum út í úthafið með rá og reiða. Þannig gjörði hann heimana og sveiflaði stjörnunum út í rúmið, og sagði þeim að fylgja sínum vissu brautum að eilífu.

2. Í öðru lagi er skoðun sú, er kalla má „vísindalega guðsafneitun." Skoðun sú telr menn eigi þurfa guðs við. „Gef mér að eins efni og kraft," segja þessir menn, „þá get ég gert grein fyrir því, hvernig heimrinn hafi skapast." En ef vér segjum við þá: „Hvar getið þið fengið þetta efni og þennan kraft?" Þá segja þeir: „Það er eins auðvelt fyrir oss að ætla, að efnið og kraftrinn hafi verið til frá eilífð, eins og fyrir yðr að ætla, að guð hafi verið til frá eilífð." Þetta er í fám orðum skoðun hinna vísindalegu guðsafneitenda.

3. Hin þriðja skoðun er algyðistrú. En hvað er það? Það er trú sú, að guð sé jafn eilífr og sama eðlis eða efnis og alheimrinn, að náttúran sé guð, og að guð sé náttúran. Það er alt, sem um það er að segja.

4. Hin fjórða skoðun er sú, er ég hefi ekkert nafn á og 2 enskir vísindamenn hafa nýlega um skrifað í bók er nefnist „the unseen Universe." Þeir kenna, að til sé andlegr og ósýnilegr heimr, er fylli upp hið sama rúm og þessi hinn sýnilegi heimr, að hinn líkamlegi heimr hafi myndast af hinum andlega og hverfi aftr í hann, að guð sé lífið og ljósið og kraftrinn í báðum, að hann opinberi sig í hinum ósýnilega heimi fyrst, og svo í hinum sýnilega, og að hinn sýnilegi heimr sé skuggi hins ósýnilega. Þetta segja menn þessir, að sé fyllilega í samræmi við vísindin, og mér fyrir mitt leyti finnst ekki svo auðvelt að hrekja þá.

5. Hin fimta skoðun, sem ég ætla á að minnast, er kölluð ókyngi

(agnosticism); er nafn það orðið alþekt nú á dögum, en þó oft haft í víðtækri merkingu. Það er trú þeirra manna, sem ætla, að hæfileikar manna séu mjög takmarkaðir, að menn geti ekki þekt neitt, nema náttúrlega viðburði. Það megi vel vera, að guð sé til, eða sé ekki til, en hvort sem heldr er, þá vitum vér ekkert um hann og getum ekkert um hann vitað. Menn með þessum skoðunum eru kallaðir ókyngismenn (agnostics).

6. Enn er ein skoðunin til og er það sú, að guð sé íbúandi í alheiminum. Það er trú sú, að guð sé lífið og sálin í alheiminum, á líkan hátt og andi (mind) mannsins er lífið og sálin í líkama hans, að guð sé hin æðsta speki, að hann sé kærleikr, að hann sé hinn æðsti máttr, að hann lifi í og opinberi sig í alheiminum, að hann sé sálin, en heimrinn sé líkaminn.

Ég hefi þá í fám orðum reynt, að skýra uppruna og þroskun trúar manna á guð; smátt og smátt mun ég reyna að svara helstu spurningum þeim, sem ég hér hefi leitt fram fyrir sjónir manna, og grennslast eftir hvað vér eigum að hugsa, hverjar ættu að vera tilfinningar vorar, og hvað vér skulum gjöra.

---

# Hugmyndir ýmsra þjóða um uppruna heimsins.

(Framh. frá nr. 11 fyrra árg.).

Aftr á móti hefir hinn enski heimspekingaskóli vanalega haldið í materialistiska stefnu. Hann byrjar á hinum ytra heimi, og verðr þá oft að hann finnr ekki skaparann. Sá sem fullkomnast hefir sett fram skoðanir þessar, er Herbert Spencer, og segir hann það hreint og skýrt, að ómögulegt sé að hugsa sér sköpunina. Hann segir oss í „First Principles," að kenningin um sköpunina gangi út frá því, að himin og jörð hafi verið sköpuð, rétt eins og verkamaðr eðr smiðr smíðar einn eðr annan búshlut. Hann segir, að bæði Plató og núlifandi vísinda menn gangi út frá því sem gefnu, að áþekt sé með sköpun og smíðar eða handiðnir. En hann mótmælir þessu af þeirri ástæðu, að það skýrir ekki hvaðan efnið hafi komið, er hinn mikli smiðr hafi smíðað úr.

Hann álítr og að skaparinn sjálfr sé óskiljanlegr, og með nokkrum hugsunarfræðilegum sönnunum gengr hann frá trúnni á sköpunina, sem ómögulegri hugmynd.

Svarið upp á þá hugmynd, að sköpunin sé óhugsanleg, verðr fyrst og fremst það, að allr þorri mannkynsins hefir hugsað sér hana.

Hinir nýrri heimspekingar hafa staðið öndverðir gegn því, að sanna tilveru skaparans af því, að alt ríki náttúrunnar svari svo vel tilgangi sínum, að það hljóti að benda á skyni gædda veru, sem höfund sinn. Um tíma höfðu mótmæli þeirra þau áhrif, að menn dignuðu við þessa trú. En, er menn nákvæmlega fóru að skoða mótbárur þeirra, þá mistu þær kraft sinn, og skarpvitrir hugsandi menn á seinni tímum hafa tekið gildar sannanir þær, er röð og regla, afleiðing og orsök, færa manni um sköpunina og tilveru skaparans. Hinar nýjustu uppgötvanir í líffræði hafa fært sönnunum þessum því nær ómótstæðilegan styrk. Hvernig er það mögulegt að líta hina undrunarlegu sköpun smádýranna, hina aðdáanlegu náttúruhvöt dýranna, hvernig einn hluti líkama þeirra svarar til annars, hvernig limirnir eða líffærin svara til starfa þeirra, er þau eiga að vinna, hvernig er mögulegt að líta þetta og skýra það, eins og hinir gömlu materialistar gerðu, að ætla, að þetta alt sé til orðið af hendingu, sé komið af því hvernig hinar skynlausu agnir af tilviljun blandast saman, að það sé þannig til orðið af blindum náttúrukröftum um ótölulegar aldir? Þó að vér settum nú svo, að eitt heppilegt atvikið hefði rekið annað, til þess er byrjun sköpunarinnar var komin, þá hljótum vér þó að álíta, að það væri meiri, miklu meiri heppni, en fyrir hefir komið í nokkru lukkuspili. Svo er hitt, að ekkert er líklegra, en að það, sem skapað er af blindum náttúrukröftum, það hljóti að eyðileggjast af þessum sömu kröftum. Einn einasti snúningr þessa lukkuhjóls mundi vonum bráðar sundra og eyðileggja þenna hálfmyndaða heim.

Leiddir af ástæðum þessum, hafa vísindamennirnir slept þessari hugmynd um tilviljunina og ekki álitið mögulegt að halda henni fram. Í staðinn fyrir tilviljunina hefir komið lögmál. Þeir, sem neita því, að heimrinn hafi verið skapaðr af skyni gæddri veru, segja að hann sé orðinn til fyrir lögmál. En alt fyrir það er spurningunni ósvarað, þessari: „Varð þetta lögmál til fyrir tilviljun, eða af fyrirhuguðu ráði? Ef engin skyni gædd vera stendr á bak við það, þá er það komið af tilviljun, og er þá enn undarlegra en hitt. Lögmál þýðir reglum

bundna framkvæmd. Lögmál er enginn skapandi kraftr, en að eins reglur þær, sem kraftarnir vinna eftir. En fastar reglur og aðferðir, sem kraftarnir vinna eftir, og framkvæma eitt eðr annað fyrir, það ber einmitt vott um skyni gædda veru, er stendr á bak við lögmálið eða regluna. Fyrir því haggar það ekkert skoðun þeirri, að skyni gædd vera hafi skapað heiminn og stjórni honum, þótt menn fylgi þeirri skoðun, að heimrinn gangi eftir, stjórnist af og sé til orðinn fyrir ó-breytanlegt og eilíft lögmál. Að heimrinn sé skapaðr eftir föstum lögum, en ekki af gjörræði, bendir engu síðr, heldr miklu fremr á skyni gædda veru, sem höfund hans.

(Framhald).

---

## Spurningar til hinna orthodoxu.

—o—:o:—o—

14. Í annari Konungabókinni 1. kap. er sagt frá því er Ahasía datt og meiddi sig, og sendi til Elía spámanns höfuðsmann einn og 50 menn með honum og vildi finna Elía. Höfuðsmaðrinn kom til Elía þar sem hann sat á fjallstindi einum, ávarpar hann og segir: „Þú guðs maðr! konungrinn segir: kom þú niðr!“ Og Elía svaraði og sagði við höfuðsmanninn yfir 50: „Sé ég guðs maðr, þá falli eldr af himni og tortýni þér og þínum 50.“ Þá féll eldr af himni og tortýndi honum og hans 50. Og hann sendi aftr höfuðsmann yfir 50 og hans 50 og þessi byrjaði þannig tal sitt við hann: „Þú guðs maðr! svo segir konungrinn: kom sem skjótast niðr.“ Og Elía svaraði og sagði við þá: „Sé ég guðs maðr, þá falli eldr af himni og tortýni þér og þínum 50.“ Þá féll guðs eldr af himni og tortýndi honum og hans 50.“ Og hann sendi enn í þriðja sinn höfuðsmann yfir 50 og hans 50 með. Og höfuðsmaðrinn yfir 50, sá þriðji, kom og beygði kné sín fyrir Elía og bað hann og sagði til hans: „Þú guðs maðr! láttu þó líf mitt og líf þinna þjóna, þessara 50, vera dýrmætt í þínum augum“ o. s. frv. Þá fór Elía loksins með honum til konungsins. Og hann talaði við hann: „Svo segir drottinn, af því þú sendir menn til frétta við Baal-Sebúb, guðinn í Ekron — líklega af því guð er ekki til í Ísrael — til að spyrja, þess vegna skaltu ekki komast úr rekkju aftr, sem þú ert lagstr í, heldr skaltu deyja.“ Og hann dó eftir orði drottins, sem Elía hafði talað. Þessi orð sýna það, að Elía átti að vera innblásin af guði, en hvílíkr innblástr var það, að kalla eld af himni ofan og deyða menn þá sem ætluðu að finna hann, hvern flokkinn á eftir öðrum? Hvað höfðu aumingja mennirnir brotið? Þeir voru sendir til hans að biðja hann að koma á fund konungsins. Hva

sést réttlæti eða kærleikr eða miskunn í þessu? Eða þá sjálfr boðskapr drottins ttl konungsins: Af því konungrinn sendi til frétta við Baal-Sebúb, þá átti hann að deyja. En nú er það athugandi, að sendimenn konungs fóru aldrei til Baal-Sebúbs, því Elía mætti þeim á leiðinni og snéri þeim aftr. En af því að konungrinn sendi þá á stað, þá átti hann að deyja. Hvaða dómstóll í heimi hefði nú dæmt konunginn til dauða fyrir þetta? Ef að hið sama hefði átt yfir alla þá að ganga, sem leitað hafa véfrétta, þá hefði æði margr maðrinn átt lífið að láta. Grikkir leituðu véfrétta í Delfis, en þó er þess ekki getið, að þessi dómr hafi yfir þá fallið. Allar fornþjóðir hafa haft sína guði, sem þær hafa leitað véfrétta hjá. og hefir ekki annað heyrst, en að þær hafi lífinu haldið og dáið skaplega hver maðr.

„Sé ég guðs maðr," segir Elía gamli, „þá falli eldr af himni og tortýni þér og þínum 50." Falleg var nú óskin! Til þess að sanna sína guðdómlegu sendingu fer Elía ekki að vinna nein kærleiksverk, heldr blátt áfram morð, með því þóknast hann guði sínum eins og það væri sá sannasti vitnisburðr um guð, eins og þessi og önnur eins verk einkenndu guð og væru honum eiginleg og vel þóknanleg. Já, mikill var Elía, og gott væri að hafa aðra eins spámenn og guðs menn á vorum dögum, eða er ekki svo?

Seinna varð Elía þessi upp numinn til himins, keyrði þangað á eldlegum vagni með eldlegum hestum. Fylgdi þá Elísa spámaðr honum, þar til Elía keyrði frá honum á vagninum í loftinu. Snéri Elísa þá til baka aftr. En „sem hann gekk áfram veginn (til Betel), komu smásveinar úr staðnum og köstuðu á hann steinum, hæddu hann og sögðu: kom hingað, skalli! kom hingað, skalli! Og hann snerist við þeim, og er hann sá þá, formælti hann þeim í nafni drottins. Þá komu tveir birnir úr skóginum, sem rifu í sundr 42 af þeim." 2. Kon., 2. kap. Einstaklega var lærisveinninn þarna líkr meistara sínum, Elía gamla. Þetta voru nú guðs menn!!!

---

G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans í þeim efnum.

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

„DAGSBRÚN" kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

| | |
|---|---|
| Árgangrinn kostar í Vestrheimi | $1,00 |
| Sendr til Íslands en borgaðr hér | $0,75 |
| Sendr til Íslands en borgaðr þar | Kr. 2,00 |

—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——

Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.